# Dagsbrún.

*Mánaðarrit til stuðnings frjálslegri trúarskoðun.*

*Ritstjóri: MAGN. J. SKAPTASON.*

I. | GIMLI, MAN. JULI 1893. | 7.

## Á fáviskan einlægt að drottna yfir oss?

Útdráttr úr grein eftir Rev. KRIST. JANSON,
(Saamanden júní 1893.)

ÞAÐ lögmál hefir drottnað í heiminum frá fyrstu, að mennirnir væru upphaflega ófullkomnir en þyrftu að hefja sig upp til fullkomnunar með sífeldri baráttu. Ef vér lítum yfir sögu vísindanna, þá getum vér ljóslega séð, hvaða stríð og þrautir það hefir kostað, að koma heiminum á það stig, sem hann nú er á. Það vill ætíð vera svo, að "meiri hlutinn" sitr í ró og makindum feitr og sællegr, dysjaðr í eigin fávisku sinni og þykist svo hárviss um, að þessi fáviska sín sé hinn æðsti sannleikr, að hann fyrirlítr og svívirðir þá, sem aðrar skoðanir hafa og þora að láta þær í ljósi.

Þegar guðfræðingarnir hafa komist í kast við einhverja menn, er þannig hafa hugsað og talað þá hefir nú fyrst skörin farið upp í bekkinn. Það er ekki lengra síðan, en árið 1619 e. Kr., þá var maðr einn Vaninius að nafni á báli brenndr fyrir skoðanir sínar. Hann hélt því fram að vér gætum ekki þekkt Guð til fullnustu nema því að eins, að vér sjálfir værum guðir. Hann sagði um Guð: ,,hann er hinn fyllsti kærleikr, upphaf tilverunnar, réttlátr, meðaumkunarsamr, blessaðr, alsæll. Hann er skaparinn, viðhaldið, stjórnarinn, alvitr, almáttugr, konungr, drottinn, upphafið, endirinn, eilífðin. Hann einn er alt í öllu," Þessi maðr var á báli brenndr

vér kveikjum ófrið á heimilunum og manna á meðal. En, er vér lítum til Jesú Krists, þá sjáum vér að eigin móðir hans og bræðr vildu ekki fylgja honum í fyrstu og unnu á móti honum. En því fór svo fjarri, að Kristr léti af boðun sannleikans fyrir það. Nei! vinir mínir! Það er ekki hægt, að stöðva rás sannleikans, þó að hún særi fáviskuna svíðandi sárum. Þeir sem lengra eru komnir áleiðis, geta kennt í brjósti um fáviskuna og látið vera að áreita hana að nauðsynjalausu, en lengra geta þeir ekki farið. Þeir geta ekki afneitað sannleikanum, eða dregið úr honum, þeir mega ekki láta hræða sig til þess að segja það lygi, sem þeir vita, að er satt, eins og Galilei gamli. Þeir eiga sem heiðarlegir menn og einarðir að standa fastir og óhaggaðir hvað, sem á dynr.

Vér skulum því vinir temja oss meðaumkvun yfir fáviskunni og staðfestu við sannleikann. Vér skulum ótrauðir kannast við sannfæringu vora fyrir Guði og mönnum, vér eigum að elska hana og ganga öruggir fram í þá stefnu er hún leiðir oss, alt að einu fyrir það, þó að fáviskan hlæi að oss, eða hati. Setjum oss fyrir mark og mið, að sigra öll þau öfl er á móti stríða. Vér megum ætíð búast við að það gangi til líkt og sagnaritarinn Lecky segir: „að bæði karlar og konur taki sér óskeikult dómsvald í deilumálum, þó að þeir hafi als enga þekkingu á rannsókn ritningarinnar, þekki ekkert sögulegar rannsóknir eða vísindalegar uppgötvanir, þó að þeir meira að segja þekki ekkert til rita þeirra er þeir eru að dæma um. En alt fyrir það fordæma þeir, hata, aumkva og biðja fyrir þeim, að þeir umvendist, er hafa aðrar skoðanir en þessar gömlu. Þessir menn og konur slá því föstu, að þær skoðanir hljóti að vera sannar, sem þeir sjálfir hafa öðlast án *nokkurrar rannsóknar*, en að þær skoðanir hljóti að vera rangar, sem aðrir hafa aflað sér með *rannsóknum*. Þessir menn og konur gjöra sér það að skyldu, álíta það lífsspursmál, að ráðast á þessa guðleysingja með öllu mögulegu móti, af öllum kröftum, án þess að skoða nokkuð hvort þeir hafi rétt fyrir sér eðr ekki. Allr þorri þeirra, sem hæst láta, og mest ofsækja eina eðr aðra villubókina myndi með hryllingi fleygja frá sér bókum þeim, er þeir fordæma, án þess að opna þær, eða rannsaka efni það, er í þeim er. Prestar og prelátar styðja hugsan þessa af öllu afli, með allri sinni mælsku [sjá „Sam.“]. Þeir æsa tilfinningar og ímyndunarafl kvennfólksins, til þess að hleypa því á stað, eitra heimilisfrið-

inn og hleypa konunni á móti manninum, manninum á móti konunni, foreldrunum á móti börnunum og börnunum á móti foreldrunum. Þeir leggja ótal örðugleika á leið allra þeirra, er leita vilja sannleikans, þeir breiða þannig út svívirðilegt hugleysi og hræsni meðal manna.

Vér höfum daglega reynslu fyrir þessu ástandi. En vér megum hvorki láta ópið né mótstöðuna gjöra oss óttafulla eðr æsta. Vér megum ekki þegja, þegar oss ber að tala og ekki heldr vera harðir eða ranglátir gagnvart fáviskunni. Vér verðum að líta á það hvað þeim sárnar, að missa sína gömlu fótfestu, að sjá margan góðan dreng úr liði sínu ganga í flokk frelsisins og framfaranna. Látum oss biðja um hinn sanna postula anda temja oss að taka tillit til annara og særa þá eigi að nauðsynjalausu. Þú himneski Guð og faðir! leið oss í þínum anda, gef oss anda Krists, hinn *óttalausa*, djarfa en um leið blíða og elskandi anda svo að vér getum þolað móðganir og játað þitt nafn í verki og sannleika.

---

Af ræðu þessari eftir snillinginn og skáldið Kr. Janson sjáum vér, hversu líkt er nú með oss og frændum vorum Norðmönnum, er brjóta vilja af sér mörg hundruð ára hlekki hjátrúar, hindrvitna og klerkavalds.
Ritstj.

---

# Hugleiðingar um ritninguna.

[Framhald.]

Það er nú þegar búið að sýna það, að til eru og til hafa verið fleiri helgar bækr, en þær, sem vanalega eru taldar í ritningu vorri. Hinir rétttrúuðu taka því fagnandi sem vonlegt er, ef ein eðr önnur af þessum fornu bókum kemr að nýju í ljós eftir 2000—3000 ára, svo sem Enochsbókin sjá síðastu „Sam.“, en þeir gjöra ekki grein fyrir því, hvernig á því standi, að Guðs eigin innblásna orð skuli hafa týnst um fleiri þúsundir ára? Það er annars ekki nýtt þetta, því í 2. Kronikubókinni 34. kap. 14. v. er sagt frá því, að Hilkia prestr *fann* lögbók drottins, þegar þeir voru að taka upp fé það, sem borið hafði verið í drottins hús. Þetta átti að vera á

dögum Jósiasar Júdakonungs fyrir 611. Bókin hafði verið *týnd* og nú er hún var fundin aftr þurfti Hilkia að fá skrifara sinn Shaban til þess, að lesa hana upp fyrir lýðnum, sem er nokkuð undarlegt. En enn þá undarlegra verðr þó það, að Gyðingar skyldu skilja hana, er Shaban las hana upp, ef menn eiga að ganga út frá því, að Móses hafi skrifað hana. Móses var uppi 800 árum áðr, þá höfðu Gyðingar verið 400 ár hjá Egyftum og óefað nálgast meira eðr minna mál það, er þeir töluðu, en nú voru 800 ár síðan, og þeir búnir að kynnast púnverskum og sýrlenskum þjóðum, og hver, sem þekkir nokkuð til sögu þjóðanna, veit það, að málin breyta sér mikið á 800 árum, einkum þar sem dagleg samganga er við aðrar þjóðir; en nú bætist það við, að Gyðingar hinir fornu höfðu enga hljóðstafi í ritmáli sínu, að eins samhljóðendr og mátti því skjóta öllum mögulegum hljóðstöfum inn milli hverra tveggja samhljóðenda. Hljóðstafamerkin hafa Gyðingar ekki tekið upp til fullnustu fyr, en eftir daga Krists. Hvert orð gat því haft svo margar þýðingar, sem hægt var að skjóta hljóðstöfum inn milli samhljóðendanna, og virðist það hafa getað gjört æði mikinn meiningamun,—en Gyðingar skyldu alt þegar Shaban las upp fyrir þeim lögmálsbókina!!

Þegar vér nú lítum yfir þenna fjölda hinna helgu bóka, allar eftir samskonar höfunda þá kemr sú spurning ósjálfrátt fram: Hvernig getum vér vitað það, að bækr þær, sem nú eru prentaðar í ritningu vorri, eigi einmitt þar að vera og engar aðrar? Gæti það eigi hugsast, að sumar af þessum glötuðu bókum ættu að vera þar, en sumar, sem nú eru þar, ættu að takast burtu? Hvernig stendr á því, að rit sumra postulanna og annara helgra manna skuli álitin vera guðdómleg, en sum einskisvirði? Eða, ef því væri slegið föstu, að rit hinna heilögu manna, postulanna og annara væru innblásin af heilögum anda, hvernig gátu þau þá farið að *týnast,* eins og hér að ofan er sýnt bæði um lögbókina, er Hilkia fann og svo allar þessar bækr nokkuð á annað hundrað, úr gamla og nýja Testamentinu, sem menn nú annaðhvort vita ekkert um, eða hafa aðeins brot af.

Enginn getr sagt með vissu, hve nær bókasafn hins gamla Testm. hafi fullgjört verið. Ætlan manna er að Ezra hafi fyrstr manna safnað saman hinum elstu bókum þess eftir herleiðínguna, er lauk 536 f. Kr. Gyðingar skiftu hinu gamla Testam. í 3 flokka, 1. flokkrinn var Mósesbækr og Jósúa og (kanske) Dómararnir. Hinn 2. flokkr voru spámennirnir og svo hinn 3. flokkr hin önnur rit gamla Testm. Lögmálið álitu þeir helgast, en minnst varið í hinn 3. flokkinn. Rithöfundar kirkjunnar um þær mundir, kirkju-

feðrnir, voru sinn á hverri skoðun um bækr þessar. Einn vildi kasta þessum bókum, annar hinum, og lágu þeir oft hvor í hári annars í deilum þessum, sem stundum urðu allgrimmar.

Sumir segja að kirkjuþingið í Laodicea 363 e. Kr. hafi slegið því föstu hverjar bækr skyldu helgar teljast, en aðrir neita því. Kaþólska kirkjan viðrkennir, að þetta hafi alt verið laust og óbundið, alt þangað til á kirkjuþinginu í Trent 1546 e. Kr. mitt í sjálfri siðbótinni, er hin rómverska eða kaþólska kirkja loksins á kvað, hverjar bækr skyldu helgar teljast, en hjá prótestöntum hefir það í raun réttri aldrei verið ákveðið. Lúther sjálfr, var á annari skoðun um það, en margir aðrir guðfræðingar. Hann neitaði gildi Hebreabréfsins, Opinberunarbókinni og Júdasarbréfi, Jakobsbréf kallaði hann „heybréfið“ svo þótti honum lítið til þess koma. Aftr þýddi hann og taldi til ritningarinnar ýmsar bækr, er þessa tíma guðfræðingar vilja ekki kannast við, svo sem: Júditsbók, Spekinnarbók, Tobíasarbók, Síraks- Baruks, 1. og 2. Makkabeabók og bæn Manasse. —Siðbótamaðr Svisslendinga Zwingli neitaði Opinberunarbókinni. Kalvin í Genf neitaði því að Páll hefði skrifað Hebreabréfið og Pétr 2. Pétrsbréfið, en Opinberunarbókina kallaði hann bull eitt og endileysu og bannaði prestum að þýða eða útskýra hana.

*Trúgirni og vanþekking* réðu og ríktu á tímum þeim er ritningin var skráð og viðtekin sem heilög bók. Ef vér lítum aftr í tíma þann, er hin helgu rit voru skráð á og berum hann saman við vora tíma þá má oss furða stórlega á því, hve mikið af háfleygi og andagift og hve lítið af hindrvitnum og hégiljum skuli vera í þessum fornu bókum. Menn voru sannarlega trúarsterkir á þeim tímum. Djöfullinn gekk um á hinum fyrri tímum kristninnar, sem grenjandi ljón, dauðir menn risu upp úr gröfum sínum, helgir dómar læknuðu alskonar meinsemdir, eitt eðr annað bein af einhverjum dýrðlingnum átti að lækna þenna og þenna sjúkdóminn. Fingrnir af Maríu mey eða tærnar af sankti Polykarpusi urðu þá fleiri hundruð að tölu. Því ótrúlegra sem eitthvað var, því helgara átti það að vera. Hjá Gyðingum sjálfum þekkja menn ekki til nokkurra vísinda, þeir þurftu að fá smiði að, til að smíða musteri Salómons, það eina, sem þeir helst gáfu sig við var lögmál Mósesar, að rita það upp, að læra það og útskýra. Og það er til ritsmíðanna kemr, þá voru þeir ekki búnir að fullgjöra stafrof sitt fyr, en löngu eftir daga Krists þá fyrst fóru þeir að hafa regluleg hljóðstafamerki. Biskuparnir ásökuðu hver annan um fölsun hinna helgu rita. Stundum kostaði einn einasti stafr blóðuga bardaga eins og þegar deilt var um

orðið *homoousios* og *homoiousios*, um það hvort Kristr væri sama eða líks eðlis og Guð. Sögð er saga sú um það er kirkjuþing eitt viðtók gildi bókanna í nýja Test. að þá hafi bækr þær allar er um var verið að tala ekta og óekta verið látnar undir borð eitt með gólfsíðum dúki, en svo legst þingheimr allr á bæn, en á meðan átti heilagr andi að tína úr bókunum þær, er helgar voru og leggja þær upp á borðið. Sé saga sú sönn, er ekki að furða, þó að orthodoxian haldi fast við bókstafinn. Þá þekktu menn ekkert til nákvæmrar vísindalegrar rannsóknar, eins og nú, klerkar, biskupar og prelátar voru fullir af hégiljum og hindrvitnum. Menn trúðu þá öllu, sem að þeim var rétt. Ef vér Íslendingar viljum fá hugmynd um ástandið þá, þá þurfum vér ekki annað, en taka í hönd biskupasögurnar íslensku, þar getum vér svo ljóslega séð trúgirni hinna fyrri tíma. En þrátt fyrir þetta alt saman, er svo margt háleitt og elskuvert, fagrt og guðdómlegt innan um þetta safn, að vér finnum hér nokkursskonar „natural selection“ —náttúru-úrval. Framfara og fullkomnunarlögmálið hefir verið hér verkandi eins og í ríki náttúrunnar og hefir ollað því, að hið besta hefir verið valið úr yfirhöfuð. Það sem oft er kallað: andi sannleikans hefir verið hér starfandi; til þess með þessu að hjálpa hinum kristna heimi fram til fullkomnunar til þess að fá smátt og smátt æðri og sannari hugmyndir um Guð og hans verk.

*Samræmi í myndun Búddhistabókanna og bóka ritningar vorrar.*

Málfræðingrinn og austrlanda-fræðimaðrinn Max Müller hefir ritað allmikið um uppruna hinna helgu bóka Búddhatrúarmanna og myndun þeirra, og hefir það skýrt fyrir mönnum uppruna og myndun nýja Test. Farast Max Muller orð á þessa leið: „Menn fundu í fyrstu ekki til þess, að þeir þörfnuðust nokkurra frásagna um æfi eða atburði í lífi Búddha. Hann var þeim nógr meðan hann var návistum við þá, og sjaldan var það, að lærisveinar hans eða flokkr hans hugsaði nokkuð um hina komandi tíð. Fyrst eftir að hann var látinn og genginn inn í Nirwana (friðar og sæluástand) þá fóru lærisveinar hans að rifja upp fyrir sér, hvað hinn látni vinr og meistari þeirra hafði sagt og gjört, Þá tóku þeir fagnandi öllu því er auka mátti dýrð hans, hversu óeðlilegt eða ósennilegt, sem það var, en hinsvegar var vottum þeim enginn gaumr gefinn, er draga vildu á efa eða hrinda þessum óstaðfestu sögum og sögusögnum og þá því síðr þeim, er einhverjum skugga vildu kasta á meist-

arann. Og þegar það kom fyrir, að menn urðu sinn á hvorri skoðun, þá var lítið fengist við að rannsaka, hvorir hefðu réttara fyrir sér, ópin: „vantrúarmaðr“ og „heiðingi“ hljómuðu þar í eyrum manna, sem annarsstaðar, flokkarnir slettu nöfnum þessum hvor framan í annan; og loks, þegar lærifeðrnir sjálfir lentu í hárinu hvor á öðrum, þá kölluðu menn sér til hjálpar konunga og ver aldlegt vald. Konungarnir og keisararnir kölluðu saman kirkjuþing til þess, að hindra það að kirkja þeirra klofnaði, til þess að slá fastri rétttrúaðri trúarjátningu og fullgjöra safn hinna helgu bóka.

Vér vitum til þess, að Asoka, samtíðarmaðr Seleucusar, sendi öldungum kirkjuflokksins sitt konunglega boð og sagði þeim, hvað þeir skyldu gjöra og hvað þeir skyldu forðast, hann varaði þá við hinum óekta og heiðinglegu bókum, sem hann sagði, að ekki ættu að takast upp í hið helga safn.“ „Af þessu,“ segir Max Muller „getum vér lært það, sem og staðfestist við íhugun annara trúbragða, að ekki dugar, að treysta eðr trúa skilyrðislaust á hinar kanonisku bækr nokkurrar trúar, þó að þær oftlega veiti mönnum hina bestu sögulegu upplýsingu, sem hægt er að fá. Menn hljóta meira að segja, að prófa og rannsaka þær með enn meiri nákvæmi og vandvirkni, en aðrar sögulegar bækr.“

Þetta, sem hér að framan er sagt er svo undra líkt uppruna nýja Testamentisins að það er eins og Max Muller hafi verið að segja frá hvernig safn það var samantekið, en ekki að tala um myndun ritningar Búddhatrúarmanna. Því ef vér setjum: „Krist“ í staðinn fyrir „Búddha,“ „löndin kringum miðjarðarhafið“ í staðinn fyrir „Indland“ og „Constantinus keisara“ í staðinn fyrir „Asoka konung“ þá fáum vér því nær stafrétta frásögu um myndun meiri hluta rita þeirra, er samin voru um æfi og kenningar Krists. Vér sjáum hvernig fáein rit voru valin úr heilum hóp af ritum og sett í safn það, er vér nú köllum nýja Testamenti.

(Framhald næst.)

---

## *SMÁVEGIS.*

Börn! horfið þið í augu hennar, hlustið á hina sætu og hljómfögru rödd, gefið gætr að hinu mjúka handtaki, er hún fer um ykkr höndum.

Virðið það og metið það. meðan þið hafið hina dýrmætustu af öllum gjöfum Guðs, góða og elskulega móður. Lesið út hina óumræðilegu ást í augum hennar,kvíðann og angistina,sem lýsir sér á svip hennar og látbragði þegar þið eruð sjúk. Seinna í lífinu getið þið fengið fullar hendur vina, en hina ósegjanlegu ást og blíðu móðurinnar getr enginn veitt ykkr nema hún ein. [Christian Register.

——Hjá manni þeim, sem gefr hjarta sitt Guði, er kærleikrinn hreinn og óblandaðr, fullr blíðu og viðkvæmni, því hann getr ekki annað, en elskað af hreinu hjarta alla menn og alt yfir höfuð. Hann árnar öllum hins besta og gleðst yfir velgengni þeirra. Þeir mega gjöra, hvað þeir vilja við þann mann, þeir mega elska hann eða hata hann, —já þó að þeir deyddu hann þúsund sinnum, þá gæti hann ekki látið vera að elska þá eða þann mann, sem svo oft hefði slegið hann. Þó að hann hefði breytt ranglega og grimdarlega við hann, þá gæti hann ekki annað en óskað honum góðs, breytt vel við hann, og sýnt honum alla þá velvild,sem honum væri mögulegt, ef hann að eins vildi láta svo lítið að þiggja það af honum. Christian Register.

---

# Athuganir við sköpunarsöguna.

Framhald.

## VII.

### *SJÓR OG LAND.*

Lengi hljóta vötnin að hafa svifið, sem gufa yfir jörðinni storkinni, en enn þá sjóðheitri, og sjáum vér hnött á þessu sköpunarstigi, þar sem jarðstjarnan Júpiter er. Ætla stjörnufræðingar, að hið sí-breytandi útlit hans stafi af þykkum skýjamekki, er hin sjóðheita gufa hnattarins spennir í loft upp vatnið, er mynda á hin komandi höf hans. Meðan jörðin kólnaði smátt og smátt, þéttist gufan utan um hana og varð að regni, en sauð svo upp aftr, og hóf nýja hringferð. Þannig hefir það einlægt gengið koll af kolli um þúsundir alda, uns jörðin varð svo ásigkomin, sem ritningin segir frá, er hún byrjar á sköpunarsögunni með þessum orðum: „og andi Guðs svam yfir vötnunum.“

Saga þessi lætr Guð fyrst skapa ljósið og festinguna og á hinum þriðja degi á hann að segja: „safnist vötnin undir himninum sam-

an í einn stað, svo að sjást megi þurt land". En nú skulum vér athuga, hvað jarðfræðin sér á bak við setningu þessa.

Þó að klettagólf hnattarins væri þykt, þá braut þó hin skapandi hönd það saman sem pappírsblað. Rétt eins og ís á polli einum svignar, brestr, rekr saman í garða, eðr rís á rönd af misþunga jakanna, þannig hefir það verið, er jörðin kólnaði og skorpan kipraðist saman. Þegar klettaskorpan var að storkna, risu upp bungur miklar og sigu niðr víðir dalir, svo rifnaði skorpan sumstaðar og komu þar voðalegar gjár, því aflið, sem verkaði á hana hefir verið óttalegt; stundum brettust barmarnir á sprungunum upp á við og mynduðu afarlanga og tröllslega fjallgarða. En þetta gjörði hið sama þyngðarlögmál, er réði hnattmyndun jarðar, það bjó til dældir fyrir sjóinn, það reisti upp úr hafinu afarmikla kletta og myndaði þurlendi jarðar. Það hóf upp fjöllin og sléttaði þau aftr. Það réði hnattmyndun regndropanna og dróg þá til jarðar, það hitaði sólina, breytti svo vötnunum í gufu og spennti þau aftr í loft upp. Fyrir þetta sama afl féll gufan aftr til jarðar, er hún kólnaði og rann til sjáfar um fljót og ár. En við vatnið voru blandaðar ýmsar sýrur,og átu þær smátt og smátt í sundr fjöllin og eyddu þeim. Það þarf ekki annað, en að líta á fjallagljúfrin, þar sem árnar hafa grafið sér djúpar skorur mílum saman í gegnum harðan klettinn, sumstaðar hér í Vestrheimi nær mílu á dýpt. Má af því sjá hið eyðandi afl vatnsins. Árnar veltust áfram, möluðu sundr brotin úr klettunum, báru með sér leðjuna smæstu til sjáfar og dreifðu út frá sér þykkum lögum af sandsteini og leirjörð (clay), en sjórinn skolaði öllu upp að ströndinni aftr, uns lagið varð svo hátt, að það þornaði.

Einlægt sukku fjöllin niðr eða bárust með ánum í sjóinn, en ný fjöll risu upp aftr í þeirra stað, til þess að fara sömu ferðina. Þannig gekk það um óteljandi aldaraðir (nokkuð lengr en þenna 6000 ára tíma Mósesar); þangað til hin upprunalega skorpa jarðar var sumstaðar etin sundr margar mílur á dýpt, og hlaðið upp aftr í nýjum klettalögum á öðrum stöðum. Við þetta urðu margar efnabreytingar, og sjórinn hlóð upp efnum þeim, sem í honum voru uppleyst, ýmist í klettalögum eða í kristallamyndun, sem vér sjáum sindra í holum á fjörusteinum hvar sem vér förum. Er það ætlan manna, að meginhluti fjalla þeirra, er nú sjást séu mynduð þannig af vatni, þótt hitinn seinna hafi oftlega velt þeim við, fært þau úr

stað, eða skotið klettalögunum á misvíxl. Þannig urðu hin afarlöngu jarðfræðislegu tímabil: 1. frumaldarklettarnir, sem í Canada eru meira, en 7 mílur á þykt og í Bæheimi og Baiern eru þó enn þá þykkri; 2. fornaldarfjöllin, sem einnig eru 7 mílur á þykt; ofan á þeim liggja 3. miðaldarlögin og 4. nýrri aldar-lögin, sem til samans eru alt að því eins þykk, og—þetta gjörðist alt á hálfum degi, (Móses) að safna saman vötnunum og mynda þurt land!!

Þó var þessari sköpun ekki lokið með hinum rennandi vötnum. Á ístímanum, þegar vatnið kristaliseraðist og varð að snjó, eða fraus saman og varð að ísjökum, þá söfnuðust og vötnin saman, og þyngdarlögmálið ýtti jöklunum hægt og hægt niðr á við til sjáfar. Hvílíkt skapandi afl! Þessar jökulbreiður báru með sér kletta og sand, þær voru sem tröllauknir kvernsteinar og möluðu klettana mélinu smærra, veltu leðjunni með sér ofan á láglendið og lögðu grundvöllinn að hinum frjófsömu mörkum og engjum.

Verkfæri þessarar skapandi handar voru hinar smágjörvu snjóflísar og regndroparnir. Hún safnaði vötnunum saman á einn stað malaði niðr klettana, heflaði fjöllin, flutti burtu spænina, og bygði heila flákana af þurlendi með frjófsömum dölum og víðáttumiklum sléttum.

Sannarlega var þetta „gott". En hið besta var þó það, að þessu samansafni vatnanna var ekki lokið eins og í sögunni (Móses), því hin endalausa sköpun heldr einlægt áfram. Þyngdar-þrýstingin, sem hitar sólina, lyftir upp vatninu og gjörir það að gufu, og mýkir þannig og blandar loftið, dregr svo regnið niðr aftr til jarðar og kveikir líf á jörðunni. Í aurbleytunni, sem myndast við snjókomu og rigningu, skera lækirnir sig fram og þurka jarðveginn, en árnar breiða nýtt gróðrefni yfir dalina. Þær þekja heila flákana með gróðrefni, svo að skógarnir geti vaxið, síðan fleyta þær fyrir oss timbrinu til sjáfar og saga það. Ísjöklarnir möluðu steinana, svo þeir urðu að gróðrmold og hveitið gat sprottið þar í, en elfurnar snúa enn þá steinunum til að mala hveitið til brauðgjörðar.

Enn í dag getum vér horft á þetta endalausa, guðdómlega verk. Í hverjum lækjar- eða ár-straumi getr skáldið enn lesið hina gömlu setningu: „verði þurt land"; í hverjum regnstormi, í hverju fosshljóði heyrist enn hið gamla boð: „safnist vötnin saman á einn stað." Og þessu boði er ekki lokið á einum degi, heldr er

það eilífr sköpunarsöngr, er verðr helgari og helgari eftir því, sem hann hljómar lengr innan um mannlegt líf og erfiði.

---

Framhald síðar,

---

# Hugmyndir ýmsra þjóða um uppruna heimsins.

(*J. F. Clarke. „Ten great Rel. II.*)

---

Gömlu mennirnir okkar hugsuðu annaðhvort ekkert út í uppruna heimsins; eða þeir héldu sér bókstaflega við sögu Mósesar um sköpunina. Það er líka mjög eðlilegt, þar sem þeir álitu ritninguna vera þá elstu bók í heimi, álitu alla menn vera af Nóa komna, þektu ekki til jarðfræði, mannfræði, fornfræði, og auk þessa álitu hvern staf ritningarinnar skrifaðan af Guði. En nú hafa menn fundið bækr miklu eldri, en ritningin er, hafa órækar sannanir fyrir, að heimrinn er miklu eldri, en Móses sagði, hafa kynnst svo mikið jarðfræði og þjóðafræði, að þeir sjá,að þessar gömlu hugmyndir geta ekki staðist. Menn hafa á seinni tímum kynnst svo hinum fornu trúbrögðum ýmsra þjóða í Asíu og Ameríku, er áðr voru norðrlandaþjóðum meira eðr minna ókunnar og fundið þar hugmyndir ólíkar hugmyndum Gyðinga að nokkru leiti og án efa margar miklu eldri.

Allar hugmyndir um uppruna heims má heimfæra undir eitt eðr annað af eftirfylgjndi atriðum.

Nefnilega:

1. að heimrinn hafi ekkert upphaf, hann hafi verið og verði til eilífðar, eins og hann er nú;
2. að hann hafi myndast smám saman og sé einlægt að myndast, fyrir stöðuga framför og fullkomnun (evolution);
3. að heimrinn hafi orðið til fyrir útstreymi (emanation) Gnóstíkar ætla það,
4. að hann hafi verið skapaðr af æðri skyni gæddri veru.

Hvað fyrsta atriðið snertir, að heimrinn hafi frá eilífð verið

eins og hann er nú, þá hefir aldrei neinn flokkr manna eða þjóða trúað því, aðeins einstakir menn. Allar þjóðir, hvar sem þær hafa verið á hnettinum hafa gjört sér hugmyndir um eitthvert upphaf, um sköpun jarðar, dýra og manna. Margar þeirra hafa hugsað sér heiminn í fyrstu sem óskapnað, (Chaos) myrkrið, djúpið, rúmið. Þetta kemr mjög víða fyrir hjá alveg fjarskyldnm þjóðum. Móses segir Gen. 1, 2.: „Og jörðin var í eyði og tóm og myrkr yfir djúpinu.“ Aftr segir Hesiodus sagnaritari Grikkja: „Í upphafi var Chaos“ (óskapnaðr, ginnungagap). —Hin 10. bók í Rig-Veda 11. kapít. segir: „Þar var ekkert, als ekkert, enginn heimr, ekkert loft, ekkert, er innilykti og ekkert innilukt, ekkert vatn, enginn dauði og ekkert líf. ‚Hinn eini‘ andaði rólega í og með náttúrunni. Alheimrinn var myrkri hulinn, eintóm óaðgreinanleg vötn.“ (Rig-Veda ætla margir að ritnð sé 14—18 hundruðum ára á undan elstu bókum ritningarinnar.)

Púnverjar sögðu, að byrjun als væri dökt samanþrýst loft, dimmr og óhreinn óskapnaðr. Edda norðmanna lætr heiminn byrja í myrkri og óskapnaði, og hinar sömu hugmyndir hafa menn fundið hjá Ameríkubúum og íbúum eyjanna í Kyrrahafinu.

Quiché Indverjar sögðu: „Í fyrstu voru hvorki menn né dýr, ekki fuglar, fiskar, krabbar, staurar eða steinar; hvorki dalir né fjöll, eða skógar, ekkert nema loftið. Yfirborð landsins var hulið þar var ekkert nema hinnþögli sjór og loftið.“ Ekkert var samantengt,ekkert hljóð og ekkert, sem hreifðist, ekkert nema kyrð, dauða kyrð, myrkr og nótt. Myndaskrift Azteka segir: „Á tímum skýjanna, áðr en ár og dagar voru, lág heimrinn í myrkri, alt var reglulaust, vatnið huldi slímið og leðjuna.“

(*Myths of New World.*)

Af þessu sést það, að mannkynið hefir jafnan hugsað sér einhverja byrjun. Menn hafa jafnan hugsað sér, að efnið eða efnin hafi í rauninni verið til, en síðar löguð af yfirnáttúrlegi veru. Það er eins og óljóst hugboð um það, er hin nýrri tíma jarðfræði og vísindi virðast hafa sannað.

Jarðfræðin hefir flett sundr klettunum eins og blöðum í bók og sýnir fram á, að fyrir tugum þúsunda, eða hundruðum þúsunda ára öllu heldr, hefir jörðin verið eldhnöttr einn, með engu lífi; svo hafa vötnin velt sér yfir hann, enn þá seinna hafa ísbreiðurnar þakið hann, og eins hefir hún sýnt hvernig lífið smátt og smátt myndaðist, fyrst á mjög lágu stigi, plöntur og ófullkomin dýr, svo einlægt æðri og æðri tegundir, uns maðrinn loks kemr á jörðina, og

vissulega hneygjast vísindin mikið að *evolutions*kenningunni, eða framhaldandi fullkomnun heimsins með öllu því sem í honum er.

(Framhald síðar.)

# Spurningar til hinna orthodoxu.

'Og drottinn mælti: finni ég í staðnum Sódóma 50 réttláta, svo þyrmi ég öll'm staðnum þeirra vegna', 1. Mósesbók 18, 26. Hvernig stendr nú á því, ef að ritningin er öll g.ðdómlega innblásin, að hinn alsvitandi Guð skuli tala þannig? Það lítr svo út hér, að hann hafi ekki vitað með neinni vissu, hvað margir réttlátir voru í Sódóma. Er ekki þetta a'g-ljós sönnun fyrir því og sýnishorn af því, hvað Gyðingar höfðu lágar hug myndir um hina æðstu veru. Maðr sá, er ritað hefir þessa bók, hefir a'gsýnilega hugsað sér Guð líkan manni;hann er að spjalla við Abraham og semja við hann, eins og kaupandi væri að semja við seljanda, hvorugr þeirra veit hvað margir réttlátir eru í staðn'm, og loks verða þeir ásáttir um, að Guð hlífi staðnum, ef þar kynnu að finnast 10 réttlátir. En reyndin varð sú, að þar fyrirfannst aðeins einn: gamli Lot, og vita þeir, sem lesið hafa sögu hans, hvernig réttlæti hans var varið, sjá 1. Mósesbók 19, 30—38 og líka 19, 8.

En sjáum vér, hvað háar hugmyndir, hinn innblásni höfundr hefir haft um alvisku Guðs í 1. Móses 3. kap. 8. versinu. Þar lætr söguhöfund urinn G'ð fara að leita að manninum og kalla á hann og spyrja: „hvar ertu." Höfundrinn hefir ekki álitið skaparann svo alsjáandi, að hann finndi manninn undir eins í skógarrunn'num í Eden, þetta lítr svo út, sem maðr einn sé að leita að öðrum. Vér álítum, að þetta hvorttveggja sé að niðrlægja guðshugmyndina. Það eina sem menn græða á þessu er það, að menn sjá, hvaða hugmyndir Gyðingar höfðu um þenna Guð sinn.

---

Hvaða mannflokkr var það, sem Kain hélt að mundi drepa sig, þegar drottinn gjörði hann landflótta?

Hvað hét kona Kains? og af hvaða ættum skyldi hún hafa verið, þar sem þá áttu ekki að lifa á jörðunni nema Adam og Eva, því þá var Abel dauðr? og hvernig fóru þau að því tvö ein; Kain og kona hans, að byggja heila borg? 1. Mósesbók 4. 17. og 13. versi.

---

Þegar höggormrinn hafði ginnt Evu gömlu, til að eta af skilningstrénu góðs og ills, þá var hon'm hegnt með því, að upp frá því skyldi hann skríða á kviði sín'm. Hvernig skyldi hreifing hans hafa verið áðr, skyldi hann hafa skriðið á bakinu, eða gengið á höfðinu, eða upp réttr á halanum? Móses gamli hefir gleymt að segja frá því.

---

Þegar djöfullinn fór með Krist upp á fjallið og sýndi honum öll ríki veraldarinnar,þá hafa þeir hlotið að sjá suðr og norðr Ameríku,hafa því orðið fyrri til að finna hana, en Leifr heppni, en því gleymdi guðspjallamaðrinn að geta um það?

Enginn regnbogi til, fyr en eftir Nóa flóðið, eða segir ekki Móses svo? Geislar sólarinnar hafa ekki getað brotnað á vatnsdropum loftsins fyrri, en þá, og þetta var þó fyrst 2350 árum fyrir Krist eða þar um. Eftir biblíu tali hefir því enginn ljósgeisli brotnað í gufuhvolfinu um þúsundir ára; en eftir jarðfræðisþekkingu manna hafa það verið tugir eða hundrað þúsundir ára, sem þetta lögmál, er vér nú sjáum verkandi í alheiminum hefir ekki verið í gildi á jörðunni. Eitthvað skrítið!

—— Vér biðjum kaupendr vora bæði að afsaka dráttinn á útkomu þessa númers af „Dagsbrún", og taka ekki hart á oss, þó vér verðum á eftir tímanum með næsta nr. Dráttr þessi stafar af miklum önnum við prentsmiðjuna í þessum mánuðum.

*BORGAÐ hafa „DAGSBRÚN" I. ár.*

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Jónatan Jónss | Árnes | 1 00 | Sturl Féldsted | Selkirk | 0 50 |
| Edw. C. Guild | Brunsvick | •1 00 | Jón Ívarsson | — | 0 50 |
| B Benediktsson | Selkirk | 1 00 | Gestr Jóhannsson | — | 0 50 |
| Þorst Þorkelsson | — | 0 50 | Matth Thordarson | — | 1 00 |
| Grímr Einarsson | Gardar | 0 50 | B Halldórsson | Mountain | 1 00 |
| Magnús Melsteð | — | 0 50 | Pétr Johnson | — | 0 50 |
| Einar Mýrdal | — | 0 50 | Vigfús Sigurðsson | — | 0 50 |
| J S Bergmann | — | 0 50 | Th Thorson | — | 0 50 |
| Björn Olson | Eyford | 0 50 | Guðm Guðmundss. | — | 1 00 |
| Jakob Líndal | Hallson | 0 50 | Jónas Kortson | — | 1 00 |
| Sveinn Arnason | Akra | 0 50 | Sigfús Sveinsson | — | 0 50 |
| Barði G Skúlason | Mountain | 1 00 | Loptr Goodmannson | — | 0 50 |
| Helgi Stefánsson | — | 0 50 | Eggert Magnússon | — | 0 50 |

*„SUNNANFARI" allr frá byrjun fæst nú sem stendr hjá G. M. Thompson. —Grípið tækifærið meðan það gefst að útvega yðr (frá byrjun) skemmtandi og fræðandi myndablað.*

**Sunnanfari.** Útsölumenn SUNNANFARA í Vestrheimi eru Chr. Ólafsson, 575 Main Str., Winnipeg; Sigfús Bergmann, Garðar, N. D.; G. S. Sigurðsson, Minneota, Minn., og G. M. Thompson, Gimli, Man. Hr. Chr. Ólafsson er aðalútsölumaðr blaðsins í Canada og hefir einn útsölu á því í Winnipeg. Verð $1.00.

☞ *G. M. Thompson, er „business manager" og féhirðir fyrir blaðið.*

„DAGSBRÚN" kemr út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vestrheimi; á Íslandi Kr. 2.00, greiðist fyrir fram. Send til Íslands en borguð hér $0.75.——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

*Prentuð hjá G. M. Thompson—Gimli*